## Eptirmæli:

I elskunni til Guds er øll dygd fólgin.

# Dygdaudug Matróna

sáluga

# Sigridur Stephánsdóttir,

andadist ad Stafholti þann 4da Maji 1801;
á síns aldurs ári 75,
Ektaskapar 37.

I Høfdingja samqvæmi løgd til hvíldar vid Stafholts Kirkju, þann 20ta Maji 1801.

---

Hennar Minning í Blessun!

---

Leirárgørdum vid Leirá, 1801.
Prentud á kostnad Prófasts Christjáns Jóhannssonar,
af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

I.

# Stutt Lifs-Saga.

Sáluga Madame Sigridur Stephánsdóttir, er borin í þenna heim, ad Hoskuldsstad innan Húnavatns sýslu, árid 1726. Hennar foreldrar vóru, þau nafnfrægu Hofdingshjón, þar verandi Sóknar-prestur Hra. Stephán Olafsson, og hans Ekta-húsfrú Ragneidur Magnúsdóttir. Þegar sál. S. Stephánsdóttir var 12 ára, hlaut hún ad sakna sinnar bestu módur, og þá áleit hennar kjæri Hra. fadir þessa sína dóttur þvílíka, ad hann lét hana takast á hendur ad mestu leiti, síns heimilis innan-bæar húshald. En þá þessi Guds madur fám árum sídar

 einnig

einnig fráféll, og eptirlét sér eckju og börn af ødrum ektaskap med Höfdings-konunni sál. Sigrídi Sigurdardóttur, útvaldi þessi góda kona, medal stjúp-dætra sinna, sér til ráda-neytis og adstodar í eckju-standinu, mína, nú framlidnu, Sigrídi Stephánsdóttur, hvad henni og í besta máta úr hendi fór, þángad til árid 1765, Gud lét hana verda ekta-hlutskipti Prestsins Christjáns Jóhannssonar, sem þá var Capellan ad Mælifelli í Skagafirdi, en promóveradist ári sídar til Stafholts í Borgarfirdi. Med einu barni, sem hét Ragneidur, og fyllti sinn aldur á viku fresti, blessadi Gud þeirra hjóna-sæng. Þau lifdu saman í allrt velmunan, þar til nú þann 4da Maí 1801, Gud heimleiddi frá þessu lífi til eilífrar hvíldar, eptir 4 daga hel-sótt, hvørja svefn í frekara lagi þó gjørdi þolanlegri,

sitt

sitt elsku barn sál. Sigrídi Stephánsdóttur, hvörja, hennar eptirlátni Eckjumadur, Prófastur Christján Jóhannsson, nú er ad þreyja, og mun þreyja medan lifir. Sé nafn Drottins vegsamad!

Ecki ber ad gleyma þjódræmis hrósi því, sem þessi blessada Kona forþénadi med dygdum sínum. Ad óttast og elska sinn Gud, var hennar hösud-kénnimerki, hvar fyrir hún og stundadi hans vilja ad gjöra. Mér, sem þessar fáu línur rita, má um slíkt kunnugast vera. Jeg kann segja, hún hafi uppalid 8 börn, flest frá módur-knjám, af hvörjum nú eru 4 komin í Statens þénustu, nefnil.: 2 Presta-konur, 1 Bónda-kona og 1 Höndlunar Assistent; hin eru yngri. Hún framfærdi, hér fyrir utan, um lengri edur skémmri tíma, margt barn þurfandi;

øll húsſtjørn lék í hennar høndum med beſtu ráddeild; henni lúckadiſt ad vinna bót á ýmſum qvillum, þá hún var þar um bedin. Þá nærfærni, kalla eg kynfylgju hennar. Þetta: „Eg fel mig „nú og øll Guds børn, í Jeſú nád= „ar ſkjól og vørn!“ minniſt eg hana ſídaſt ſegja ádur enn mælid þraut; en vott hennar ſífeldu gudhrædſlu tel eg þetta: hún ſagdi ſvo opt, í vøkunni, ſvo opt millum dúranna og ſvo opt uppúr ſvefninum: „O! Gud vor fadir, géf „þá nád, gjørdir, ræda og allt vort „rád, verdi til lofs þér einum!“ Hún elſkadi fridinn og er í fridi farin til fridarins eilífa heimkynnis. Fridarins Gud unni oſs og veiti þvílík afdrif, fyrir fridarins Høfdíngjann, Jeſúm Kriſt! Amen!

II.

*II.*

Fáyrdt

# Eptirmæli

í Ljódum,

samin af Ecklju-manninum

Prófasti Christjáni Jóhannssyni.

Lagid: Líknarfullur Gud og gódur.

1.

Dróſemd tregi eykur lángur,
Andardráttar ſvo verdur gángur,
Þraungur og ſtuttur, þad eg finn,
Þannig dregſt og burt mátturinn.

2.

Hugurinn bilaſt, hjartad mædiſt,
Heldſt þá ſvefnbrygdi líka'adſlædiſt,
Og lyſt til fædu' oflítil er,
Lángſamir gjøraſt tímarner.

3.

Sinnid dofnar nær ſálin veikiſt,
Sællegur andlits farvi bleikiſt,
Ojafna blódſins umferd þá,
Orſøk ſjúkdóma verda má.



4. Bágt

4.

Bágt er frá sér því bøli' ad hrinda,
Børn Guds opt hafa'um sárt ad binda;
Utvortis stundum ástand med,
Eykur hriggdir og særir ged.

5.

Glaumur umhverfis grátid sinni,
Er gall í hugar svøluninni,
Hægt og þægt vidmót hýrgar ged,
Helst nær skynsøm ord fylgja med.

6.

Vanheilsu manns sorg vid nær bætist,
Verdur svo þúngt, hann naumast kjætist,
Bágindum sýt ef safnast ad;
Sárara líka reynist þad.

7.

Af sundrun ástar bestu banda,
Ber flestum mesta sorg til handa,
Framkémur líka þetta þar,
Sem þó finnst efni linunar.

8.

Afsjón hjartanlegs Ekta-maka,
Eg má sjálfur til dæmis taka,
Veit Gud hvad sárt eg sakna þín,
Sigrídur Stephánsdóttir mín!

9. Móð-

9.

Móðurlaus børn eg á þó ecki,
Umsjá þeirra, svo værdum hnecki;
Veit eg og líka, vidbúinn
Varstú, ad fara'i himininn.

10.

Þeckti'eg og hitt, ad þreytast tókstú,
Þráðir hvild, dygda safn þó jókstú,
Vissi'eg ár, hafdir allmørg fyllt,
Og gjørt á þeim, þad heldst var skyldt.

11.

Þinn afgáng ráð Guds sje eg og sanna;
Sál þinni dýrdar upphædanna,
Og líki hvildar lúnu hér,
Líka grát-feginn ann, sem ber.

12.

Hugsa eg, og minn efri aldur,
Ei muni hedan af lángur taldur,
Senn muni'eg koma sæll til þín,
Þar sól Guds dýrdar bádum skín.

13.

Aptra má þad og ángurs bøndum,
Eg er í bestu manna høndum
Eptirlátinn; svo allt þad var,
Umsýslad mér til hagnadar.

 14. En—

14.

En— hvad gyldir? sámt eg þig trega,
Og sakna þín svo hjartanlega,
Svídandi blædir sorgar und,
Svellur, en græt ei mína stund.

15.

Af því þú varst mitt yndi lengi,
Af sambúd þinni blaut eg gengi;
Húss-prýdi fögur hétstu mín;
Hví mundi eg ecki sakna þín?

16.

Heilsu-tæpum mér hjúkrun tjádir,
Hóglega ad mínum kjörum gádir;
Sjø og þrjátygi árum á,
Sú ekta-tryggdin hvørgi afbrá.

17.

Mest fer í hug minn þó innþrýstir,
Þú svo tídt mig til góds áfýstir.
Gudi var þócknanlegast þad,
Þad var hollara enn hvad annad.

18.

Opt badstu mig, þér út ad skíra,
Andlega trúar-grein mjøg dýra,
Einkum um vistar-veru þá,
Sem væri oss búin himnum á.

19.

Þad ein-rúms talid lèk vid lyndi;
Því lengst hefir mitt verid yndi,
Ad ræda' um Drottins ordid skjært;
Nója sú gjørir sinnid vært.

20.

Þó munum høndla þar um betur,
Þá himininn verdur beggja'adsetur,
Og dádst Guds nádar adferd ad,
Ockur sem feck þann samastad.

21.

Elskan til Guds dygd alla hefir,
J sèr fólgna: raun vitni gefur;
Høfud ástundan þín var þad,
Þócknast honum á hvørjum stad.

22.

Þad vard blessun í þínu standi
Sem þjódræmt er í voru landi;
Þú feckst Guds børnum ard því af,
Er hann þèr sjálfur fyrri gaf!

23.

Sjálf uppskèr þú í eilífdinni,
Avøxt af slikri hegdun þinni;
Af glødu hjarta gafstú hèr,
Gledin þín núna Drottinn er

24.

Lif þá blessud um aldir alda!
Oss hjá lifir þín dygd margfalda;
Lifi þín fósturs-lánsöm börn!
Lifsins Herra sé þeirra vörn!

25.

Eg kys mér, þegar fjör burtfærist,
Og foldunni minn hamur tærist,
Legstad vid þína ad hafa hlid,
Haganlega þá sofum vid.

26.

Samfara úr jördu sídan verdum;
Sú verdur gledi mest á ferdum,
Er vid til lifsins uppvakin,
Innleidumst bædi í himininn.

27.

Ockar hin kjæra Ekta-lilja,
Sem úng heim qvaddi', ad Drottins vilja,
Foreldrum sínum fagnar þá,
Nær fáum vid hana í dyrd ad sjá.

28.

Hjálpa mér, Gud! ad þola' og þreyja,
Þá stund eg lifi', og sídan deyja,
I trú stadfastri á þinn Son,
Sem er mitt lif og sælu von!

III.

Praung=qvæd

# Pánka-brot

yfir Greftri þeirrar

Velæruverdugu, marg-dygdaudugu

Madame

# Sigrídar Stephánsdóttur

ad Stafholti,

þann 20ta Maji 1801.

Lagid: Nú hvílist sól og setst.

1.

Æ sorg! hér lít eg ljós
-Lidid úr ranni;
Bónda síns heill og hrós,
Horfin er manni,
Sóma Húsfrú-
Sigrídur Stephánsdóttir
Stillt, sem stundadi frid.
Stafholt er skilin vid;
Svefn endti sóttir.

2. Ad

2.

Ad hrósa hennar dygd,
Hverri sem bæri,
Ad glósa: hvilik hrigd,
Hennar fall væri,
Allt ofar eg
Ordfæri minu segi,
Borg sú á fialli finnst,
Fær jafnan dulist minnst,
Þvi hér um þeigi.

3.

En, fullsæl Systir! nú
Sem ad dýrd gledur,
Hinstánn koss þigg minn þú!
Þacklæti medur;
Módurlaust barn,
Mitt giørdir vel ad annast,
Þína ást, Þína trygd,
Þína velgjerd og dygd,
Vil eg vidkannast.

4.

Ó minn Vin! eg sie sár,
Ertú miøg hriggur,
Þin Una þvi ad nár,
Þakin mold liggur;
Þess von er, þvi,
Þá Hnoss er verdt ad gráta;
En — Þitt, upplýsti mann!

Æst

Æft sinnid fullvel kann,
Setja Sorg máta.

5.

Góð Kona gefin Þér,
Góda tid þreyði,
Góðverk afgreiddi hér,
A gódri stund deyði
Gott er að sjá,
Góda værd góð feck Svanninn,
Hennar við hvíldar-bed,
Til himna lypt Þitt geð,
Því hugsar Þanninn:

6.

O þú! hvørs líkn um láð,
Lif oss tilreiddi,
Og gaf frid, audnu, dáð,
Oll spor vel greiddi,
Heilaga á
Hønd vil eg kyssa þína,
Og þacka þér, Gud! mest,
Þú gjørdir allt sem best,
Við mig og Mína.

7.

Þau ár þú unntir mér,
Yndi lífs smacka,
Þau tár, sem hrynja hér,
Herra! þér þacka,
Sinnid mitt hrært,

Søkn-

Søknud þó nockurn finni,
Eg horfi heim í leid,
Held svo rór fram mitt skeid,
I umsjón þinni.

8.

Stødugt mér gefdu ged,
Gud minn! tid alla,
Þolgjædi þreyja med,
Þar til mig kalla
Þú vilt til þín,
Þá mun eg gladur fara,
Æ! þá dýrd eg þar finn,
Ad sjá þar mína, og þinn,
Skínandi skara.

9.

Hvíl nú, mitt hjarta! rótt,
Hold þitt værd tekur,
Greidt lidur grafar nótt,
Gud oss uppvekur;
Svo føllum vid
I fadm hvørt ødru aptur.
Yndid þver aldrei þá,
Ockur gefst Drottni hjá,
Nýtt líf, nýr kraptur!